ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT!
LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

VERKFALLSBLAÐ

# Stéttabaráttan

Útg. Kommúnistasamtökin marxistar-lenínistar 3. tbl. 5. árg. 20. febrúar 1976

**Áskriftasíminn er 27810**

Hafið samband við ritstjórnina í síma 27810 og 27115

Ritstj. og ábm. Hjálmtýr Heiðdal

# Fyrir hvern er þjóðarbúið?

Borgarapressan er full af úrtölum og alls konar ábyrgir framámenn reyna í sífellu að fullvissa verkafólk um að þjóðarbúið þoli ekki eninar kauphækkanir. Þessi málflutningur er orðinn svo tamur fólki að maður heyrir hann frá verkafólki sem er í verkfalli. En þessi áróður er fölsun og þar að auki sýnir hann vel hvern skilning borgarapressan leggur í hugtakið "þjóðarbú."

Allsherjarverkfallið nær til milli 35 og 40 þúsund manna í aðildarfélögum ASÍ. Þetta þýðir að milli 120 og 140 þúsund manns verða fyrir beinum áhrifum af verkfallinu ef eiginkonur, eiginmenn og börn eru reiknuð með. Það eru sem sagt milli 55% og 6% sem verða fyrir beinum áhrifum af verkfallinu. Ef síðan er tekið tillit til þess, að starfsmenn í mörgum aðildarfélögum BSRB eru líkt settir hvað varðar laun og aðstöðu, og ef bændur og búalið þeirra eru teknir inn í myndina, er tala þeirra sem illa eru settir og hafa orðið að þola geysilegar kjaraskerðingar á undanförnum árum komin hátt í 90% allra íslendinga! Það þýðir með öðrum orðum, að allir eða nálega allir vinnandi íslendingar þurfa á kjarabótum að halda og að þeir sem hafa verkfallsrétt hafa þegar hafið baráttu fyrir þeim. En þjóðarbúið þolir ekki að þetta fólk - yfirgnæfandi meirihluti þjóðfélagsins - fái það miklar tekjur af löngum vinnudegi sínum, að það geti framfleytt sér og sínum sómasamlega af.

En hvað er þá þetta þjóðarbú? Fyrir hvern er það, ef ekki fyrir 90% þegnanna? Svarið er augljóst. Þjóðarbúið svokallaða, er ekkert annað en annað nafn á gróðahagsmunum auðvaldsins, braskaranna, og svindlaranna. Það er þannig ekkert annað en hinn gamli söngur atvinnurekenda, að hagsmunir þeirra séu jafnframt hagsmunir alls þjóðfélagsins.

Manni verður spurn, til hvers er verið að halda því þjóðarbúi uppi, sem er þrælum þess til byrði og krefst þess af þeim að þeir svelti sig til þess að það geti fitnað? Er það ekki í rauninni svo, að það er ekki pláss fyrir svindlarana, braskarana og fjárglæframennina í þjóðarbúinu? Verkafólk og vinnandi alþýða hefur horft upp á þessi sníkjudýr veita sjálfum sér kauphækkanir, allt upp í 40% ofan á mánaðarlaun sem eru 600% hærri en mánaðartekjur verkamanns á 6. taxta Dagsbrúnar. Bankastjórar fengu slíka hækkun og það tekur verkamann á 6. taxta hálft ár að vinna fyrir mánaðarlaunum þeirra. Getur verkafólkið borið slíkt á herðum sínum? Það er hámark ósvífninnar þegar þetta afætuhyski hrópar af vandlætingu yfir tilhugsuninni að hækka eigi laun verkafólksins og að þjóðarbúið þoli ekki slíkt.

Þeir sem hrópa hæst um að þjóðarbúið þoli ekki að greiða verkafólkinu lífvænleg laun, skyldu minnast þess, að það er verkafólkið sem skapar öll verðmæti þjóðarbúsins með höndum sínum og ef þess nyti ekki við, myndi yfirstéttin veslast upp. Þess vegna verður verkafólk að skilja þennan sannleik og taka upp baráttu gegn auðvaldinu og þjóðfélagskerfi þess, sem veldur þessu óréttlæti.

**Skrifið í STÉTTABARÁTTUNA**

# Af verkfallsvaktinni

Á miðvikudaginn 18/2 var þó nokkuð um að menn væru að vinna, þrátt fyrir að þeir ættu að vera í verkfalli. T.d. var farið í flest allar hjólbarða og gúmívinnustofur í bænum, vegna þess að það hafði brugðið við áður að þær lokuðu ekki um leið og verkfall hæfist. Reyndust þó málin vera á hreinu hjá flestum, en á einu verkstæði er komið var á voru þrír verkamenn að vinna en lofuðu þeir að hætta strax. Kom þar einmitt upp mál, sem verður að taka föstum tökum, þ.e.a.s. að einn dagsbrúnarverkamannanna hafði verði skipaður verkstjóri, í forföllum einhvers annars, eftir að verkfallið hófst. Er þarna gróflega verið að reyna að fara aftan að verkalýðsfélögunum, og ber að setja þau fyrirtæki og þá menn sem láta hafa sig út í þetta á svartan lista og ekki minna.

Aðfaranótt fimmtudags var vakt hjá Dagsbrún og er ætlunin að svo verði á meðan verkfallið stendur yfir. Var þessi fyrsta nótt frekar róleg að sögn þeirra manna sem stóðu hana, en um ellefu leytið þá um kvöldið var tilkynnt að verið væri að fremja verkfallsbrot í brauðgerðinni Safa í Skeifunni. Þegar verkfallsverðir komu á staðinn var full vinna þar. Var mönnum sagt að hætta störfum strax og lofuðu þeir að gera það, nema einn sem sagðist vera verkstjóri en væri ekki í neinu stéttarfélagi. Er þetta lýsandi dæmi um þann aumingjaskap sem er látinn viðgangast, hér á höfuðborgarsvæðinu, og raunar alls staðar, að menn séu ekki í neinu stéttarfélagi og taki vinnu af félagsbundnum verkamönnum. Búið var að opna aftur í grænmetisverslun landbúnaðarins á miðvikudagsmorguninn og fóru menn þegar á staðinn og létu loka og er þetta í annað sinn sem þarna er lokað.

Einnig var töluvert um smábrot að ræða, t.d. að múrarar létu handlangara vinna en það er ekki leyfilegt, og mega þeir heldur ekki handlanga í sig sjálfir. Ekki má gleyma öllum þeim aragrúa af undanþágubeiðnum sem bárust. Er það skoðun flestra þeirra manna sem standa vaktir þarna að einungis beri að veita undanþágur til sjúkrahúsa og einstaka lækna, ásamt beiðnum fatlaðra.

Á fimmtudagsmorguninn 19/2 var tilkynnt að aftur væri búið að opna í grænmetísverslun landbúnaðarins, í skjóli þess að þeir væru ríkisstarfsmenn og afgreiddu ekki til kaupmanna. Við heimtuðum að það yrði lokað, t.d. á þeirri forsendu að þótt þeir teldu sig vera ríkismenn þá ynnu þeir hjá sjálfseignarstofnun, og eftir mikið þóf var lokað og vonandi í síðasta skiptið. Um kvöldið var ennþá verið að vinna í Safa en það voru bakarar og ætla þeir sjálfsagt að éta brauðið jafnóðum, því það er bannað að pakka því og ópakkað verður það ekki selt að sögn heilbrigðisyfirvalda.

Að lokum vil ég þakka þeim konum sem hafa staðið sig frábærlega vel við að hita kaffi og smyrja brauð fyrir alla þá sem hafa lagt lið sitt í baráttunni.

Verkfallsvörður.




# Tilkynnið verkfallsbrot!

Stéttabaráttan hvetur alla til að vera vel á verði gagnvart brotum á verkfallinu, sem nú stendur yfir. Án mikillar liðveislu og almennrar þátttöku er ekki hægt að vinna þetta verkfall. Tilkynnið brot til viðkomandi verkfallsvakta. Símanúmer þeirra helstu fara hér á eftir:
Dagsbrún: 25609,
Iðja: 12537,
Framsókn: 26930,
Trésm. fél. Rvík: 27600,
Bifvélavirkjar: 23506,
Járniðnaðarmenn: 18044,
Verslunarm. fél. Rvík: 26344.

Upplýsingar um símanr. annarra vakta er hægt að fá í einhverjum ofangreindra síma.

# AKUREYRI

18/2. Hér á Akureyri má segja að allt gangi sinn vanagang. Svo mikið er veitt af undanþágum að menn taka varla eftir því að skollið sé á allsherjarverkfall. Esso keyrir út olíu eins og ekkert hafi í skorist og í gær var unnið í útgerðarfélaginu (Jón Helgason, formaður Einingar, er eins og kunnugt er í stjórn þess). Engin dagblöð er hér að fá, nema hvað Morgunblaðið kemur hingað eftir einhverjum óskiljanlegum leiðum. Að öðru leyti er allt tíðindalítið héðan.

# Frá BSL

(Baráttusamtök launafólks)

BSL hélt fund á sunnudag. Fáir mættu en góður andi var á fundinum. Rætt var um kjaramál og sáttfýsi ASÍ hafnað. Næstkomandi laugardag hyggst BSL boða til verkfallsfundar.

BSL hefur gefið út flugrit sem hefur verið dreift. Þar eru settar fram lágmarkskröfur.

1) BSL telja að nú þegar verði að taka fullar vísitölubætur á laun.

Slíka kröfu er verðugt að fylgja eftir með verkfalli því kauphækkanir stoða lítt þegar verðbóla er í sífellu látin ræna okkur meir og meir.

2) BSL telja það sanngjarnt að kaup hækki sem svarar kjaraskerðin

kaup hækki sem svarar kjaraskerðingu síðustu 2ja ára, það er 42%, þó svo að það verði í áföngum.

Í dreifibréfinu setja þau fram spurninguna: Hvers vegna sé verið að fara í verkfall þegar engar kröfur af hálfu ASÍ hafa verið settar á hendur Vinnuveitendasambandinu.

---

Undanþága hefur verið veitt til ræstinga í skólum fram að helgi. Ræstingakona í gagnfræðaskólanum, sem er í stjórn Einingar sagði, að undanþágan væri veitt til þess að börnin væru ekki á götunni. Í MA notuðu ræstingakonur ekki þessa undanþágu.

# „Vinnan"

Nú hefur ASÍ loks myndast til að gefa út verkfallsblað. Það er í sjálfu sér lofsvert framtak en innihaldið er afar slappt. Slíkt blað ætti að nota til að kynna gang mála í samningunum og kröfur verkalýðshreyfingarinnar og efla samstöðu um þær. Hvetja þar fólk til að mæta á verkfallsvaktir og sýna stéttvísi sýna í að halda verkfallið og tilkynna þegar um öll verkfallsbrot sem vart verður við. Þá er mikilvægt að upplýsa fólk um eðli og tilgang verkf[illegible]lla. Þetta er enginn óþarfi, sem [illegible] á því að allt of margt fólk heldur að verkföll séu "eitthvað vont" sem stjórnmálamenn finni upp á verkafólki til hrellingar í pólitískri refskák sinni Ekki svo órökrétt ályktun eftir að hafa lesið "Vinnuna" þar sem mest af efninu fer í að telja fólki trú um að allt og sumt sem það þarfnist sé stjórnarskipti. Minna fer hins vegar í að skýra fyrir fólki um hvað sé verið að deila og hverjar séu aðalkröfurnar.

Til þess að samstaða náist þurfa kröfurnar að vera vel kunnar svo fólk viti greinilega fyrir hverju það sé að berjast. Verkfallsvaktir eiga að taka ákvarðanir um undanþágur og þær eiga að fá greinargóðar upplýsingar um allan gang samningamála. "Vinnan" á að vera sterkt blað áróðurs, upplýsinga og skipulagningar baráttunnar. Alger óþarfi er að veita dagblöðunum undanþágu til að geta rangtúlkað málstað okkar. Við eigum að stöðva útgáfu á málgögnum atvinnurekenda eins og íhaldsblöðunum í verkföllum en gefa þess í stað út okkar eigið málgagn.

Það veltur ekki á því hvaða blækur sitja í ríkisstjórn, heldur hvort verkalýðshreyfingin er sameinuð og sterk. Sterk verkalýðshreyfing getur ráðið við hvaða ríkisstjórn sem er. Verkafólk sýnið stéttvísi - fylkið lið fram til baráttu!

-/ess

# Atvinnuleysi í heiminum!

Atvinnuleysi og örbirgð breiðir enn úr sér í auðvaldsheiminum. Þrátt fyrir prédikanir sprenglærðra fræðikerlinga auðvaldsins og hagspekinga endurskoðunarsinna hefur heimskreppan enn einu sinni haldið innreið sína í auðvaldsheiminn. Í kjölfar hennar hefur verðlag risið upp úr öllu valdi, fyrirtæki hafa unnvörpum farið á hausinn og milljónum verkafólks sem hefur verið kastað út á götuna - atvinnulausum.

Þetta er staðreynd sem ekki verður horft framhjá. Svo lengi sem auðvaldsþjóðfélagið er til, svo lengi mun verkafólk þurfa að þola atvinnuleysi, örbirgð og skort. Eftirfarandi tafla sýnir þróun atvinnuleysis í 6 stærstu auðvaldslöndunum á árunum 1973-1975 (í millj.):

| | okt. 1973 | okt. 1974 | okt. 1975 |
|---|---|---|---|
| Bandaríkin | 3.763,0 | 5.044,0 | 8.000,0 |
| England | 537,2 | 643,4 | 1.165,4 |
| Frakkland | 451,9 | 627,9 | 1.015,6 |
| V-Þýskaland | 267,0 | 672,0 | 1.061,3 |
| Ítalía | 586,0 | 603,0 | 1.055,2 |
| Japan | 530,0 | 750,0 | 1.413,0 |

Þessar tölur sýna ljóslega hina uggvænlegu þróun kreppunnar sem þó er langt frá því að hafa náð botninum enn þá. Hérlendis hefur atvinnuleysi ekki látið til sín segja að ráði enn þá. En þar sem Ísland er auðvaldsland, mun það einnig breiða úr sér hérlendis.

Í sósíalismanum fyrirfinnst ekkert atvinnuleysi, þar er framleiðslu hagað með vinnukraftinn og þarfir fólksins í huga. Þetta er m.a. munurinn á Kína og Sovétríkjunum. Í Kína er ekkert atvinnuleysi og stöðugt verðlag, í Sovét er atvinnuleysi og verðbólga.

# Vísitalan og rauð strik!

Eins og margoft hefur verið sýnt fram á, þá ber tillaga sáttanefndar það ekki í sér að laun hækki eða standi í stað á árinu. Sérstaklega skýrt sjáum við þetta ef við skoðum vísitölubæturnar. Björn Jónsson sagði í viðtali við Dagblaðið að "það hefði verið reiknað út að verðbólgan eigi eftir að vaxa um átján prósent á árinu án kauphækkana, svo að sáttanefndartillögurnar miða í raun og veru að kauplækkun."

Það er gott og blessað að ASÍ-samninganefndin hefur komið auga á að launahækkunin sem "rauðavísitölustrikið" gerir ráð fyrir nær ekki einu sinni kauplækkuninni. Það má þá gera ráð fyrir að það fari að styttast í það að skilningur fara að vakna á, að svona vísitölustrik þýða alltaf launalækkun. Það er aðeins til ein leið til að tryggja að laun lækki ekki miðað við verðbólgu. Það er með fullum vísitölubótum á öll laun strax.

Með þessum vísitölustrikum er allt af gert ráð fyrir kauplækkunum, 12-14% eftir atvikum, en ekki bara með tillögum sáttanefndar eins og Björn Jónsson heldur nú fram. Þessi rauðu strik eru blekking sem auðvaldið hefur gripið til. til að stinga upp í verkalýðinn og fá hann til að sætta sig við að laun hans eru étin upp í stjórnlausri verðbólgu. Þetta er ein af þeim leiðum sem auðvaldið hefur til að velta kreppunni yfir á herðar verkalýðsins.

Við verðum því í þessum samningum að losa okkur við þessar byrðar sem við höfum engan þátt átt í að skapa, því ekki höfum við ákveðið vöruverðið, og samþykkja ekkert annað en fullar vísitölubætur á öll laun strax. Og við verðum að knýja samninganefnd ASÍ til að draga í land með undirtektir sínar við "rauða strikinu". Eitt strik eða fleiri, hvorttveggja þýðir kauplækkun fyrir verkalýðinn.

# Verkfallsbrot í MH

Í Menntaskólanum við Hamrahlíð er nú mikil ólga vegna allsherjarverkfallsins. Á miðvikudag boðaði baráttuhópur nokkurra nemenda til almenns fundar skólanema, þar sem samþykkt var stuðningsályktun við verkfallsmenn. Sömuleiðis buðu nemendur sig fram til stuðningsstarfs.

Eftir tveggja daga verkfall var ástandið í skólanum orðið vægast sagt hörmulegt. Hinir 800 nemendur skólans voru í honum frá 8 - 4.30 án þess að geta keypt mat þar sem matsalan var lokuð vegna verkfallsins. Ruslið hlóðst upp og ryk frá nemendum og öldungum (samtals u.þ.b. 1200 manns) safnaðist saman. En er nemendur komu í skólann að morgni fimmtudags kom í ljós að skólinn hafði verið sópaður hátt og lágt. Fámennur hópur skólanema hafði þá um nóttina framið gróft verkfallsbrot og unnið þannig gegn baráttu hreingerningarkvenna og í raun baráttu alls verkalýðsins fyrir bættum kjörum. Baráttuhópurinn boðaði samstundis til fundar allra skólanema og samþykkti hann ályktun sem fordæmdi verkfallsbrotið en lýsti jafnframt skólayfirvöld ábyrg fyrir því að hópur manna geti ruðst í skólann að næturlagi til að vinna gegn verkfalli hreingerningarkvenna. Samþykkt var og að leggja niður nám þennan dag til frekari áherslu á hug nemenda. Stór meirihluti nema tók þátt í aðgerðum dagsins. Baráttuhópurinn leggur áherslu á að reynt verði að halda áfram stuðningi við verkfallsmenn og kröfur þeirra, eins og unnt er.

-/HB

# NÝJUSTU FRÉTTIR!

SÓKN FRESTAR ENN.

Stjórn starfsstúlknafélagsins Sóknar tilkynnti í gærkveldi að ákveðið hefði verið að fresta verkfalli enn um sinn, vegna þess hve samningum miðar vel, að sögn. Þessi undansláttur er alvarleg undanþága gagnvart atvinnurekendum, undanþága sem vel getur lengt verkfallið ónauðsynlega mikið. Sókn hefði átt að boða til verkfalls og leyfa aðeins undanþágur í neyðartilfellum á spítölum og þess háttar. Þannig hefði enn eitt vopnið bæst í hönd verkalýðsins í verkfallsbaráttunni og auðveldar hefði reynst að knýja fram betri samninga.

BARNA- OG GAGNFRÆÐASKÓLAR LOKAST.

Nú er verkfallið farið að hafa víðtæk áhrif og allt skólastarf er lamað. Þrátt fyrir að eitthvað hafi verið um það að kennarar hafi brotið verkfallið, með því að skipa nemendum að þrífa skólana og eldað sér mat sjálfir, hefur skortur á ræstingum leitt til þess að kennsla hefur verið felld niður.